50 cts.

*Arnljotur B. Olson*

# Jón Austfirðingur

# Jón Austfirðingur

og nokkur smákvæði

EFTIR

*GUTTORM J. GUTTORMSSON*

Arnljótur B. Olson





WINNIPEG
ÓLAFUR S. THORGEIRSSON PRENTADI
1909



*Arnljótur B. Olson*

I.

## Heima.



JÓN bóndi var garpslegur, gildur og knár,
en gjarn sína krafta að dylja.
Á skegg var hann ljósleitur, bjartur um brár,
á brúnina dekkri og jarpur á hár,
þrjár álnir frá hvirfli til ilja.

Hann tignaði' og aðhyltist alt sem var hraust,
en aumingjann taldi sinn bróður.
Og saman tók breytingum svipur og raust
hann sagði ekki neitt sem var þýðingarlaust,
var oftast nær hugsandi hljóður.

Í Fljótsdal að all-miklu búi hann bjó
þar blöstu við augunum fjöllin

í skósíðum grænkyrtlum, skautfölduð snjó,
svo skyggjandi, þögul sem úthöggvin ró,
og vörpuðu frið yfir völlinn.

Það hérað er fagurt og fögur er sveit
í Fljótsdælings ættjarðar minni.
Og þriflegar hjarðir um brekkur á beit
þar breiðast, hvort tíðin er köld eða heit,
því sjaldan þær una sér inni.

Og brögguð var hundraða hjörðin 'ans Jóns,
alt hjarð kosta valið hún sýndi.
Hún ólst upp við gæði og fegurð síns fróns,
hún fann líka kærleik í breytni síns þjóns
og tölunni sjaldan hún týndi.

En þar lifði enginn jafn yndæla stund
um endilangt skeið sinnar tíðar
sem Jón, eftir hressandi bjartnættis blund,
er barst hann á fáki um hæðir og grund,
er morgunsól málaði hlíðar.

Hann þurfti' ekki að vinna því vinnufólk margt,
með vöðvana' af aflraunum sterka,
vann alt, sem var nauðsynlegt, þakkavert, þarft,

því þótti' ekki neitt vera erfitt né hart,
en Jón sagði' að vísu til verka.

Og alfrjáls hann var eins og vindur um sæ
og valur um svifrúma geima.
Og vínfleyginn hafði 'ann í vasanum æ,
er veginn hann fór heim að granna síns bæ,
en Jón átti hálftunnu heima.

Að daglegu brauði var búið hans ríkt
og bjargálnum margföldum vafið,
að umgengni, hagfræðings hugsmíði líkt
og heimilið friði og einingu vígt
og hátt yfir grendina hafið.

Að þrifnaði' og reglu var húsið sem höll
og húsbændur virtir af þjónum
og húsfreyja gestrisin, hollráðu-snjöll
og hjartagóð,— börn þeirra velgefin öll,—
og Jón bar sem kóngur af Jónum.

II.

## Evangelíum.



„Vert' augnablik hjá mér og heyrðu mig Jón,
því hátt liggur mér ekki rómur,
eg óska, að þú gerir þá einföldu bón
því orð mitt er sannleikur tómur.
Eg kem til þess Vínland að vísa þér á,
í vestri, oss helgað til forna,
því kinn þinnar móður er blóðlaus og blá
og brjóst hennar farin að þorna.

Eg veit að þér líður hér ljómandi vel.
Þér liði í Kanada betur.
Þar spilla' ekki heilsunni hríðar og él
því heitust er tíðin um vetur.
Og betra' er á vögnunum, vinur minn kær,
sinn varning að flytja um grundir,
en treysta á kláranna kraftsmáu lær,
sem kykna' einum fjórðungi undir.

Og börnin þín læra eitt kristilegt kver,
en kunna' ekki að reikna né skrifa.

Það verð eg að játa: eins vestra sem hér
er vandi án fræðslu að lifa.
En komi þau vestur til Kanada, brátt
þau kent þar á skólunum geta
og leiðtogar orðið, á lúterskan hátt,
sem lýðurinn kynni að meta.

Ef sjálfan þig langaði, lagsmaður minn,
er lítið þú hefðir að gera,
að prédika' og biðja, sem höfðinginn hinn,
sem helgar sér titilinn séra,
Þar fengir þú launin að líkindum há
og lof fyrir kenningu þína.
Í Kanada er alt, sem að fólkið vill fá
og frelsi mun þar ekki dvína.

Fyrst heyra þig langar, eg heiðarlegt tel
öll hlunnindi að taka til greina,
því öllu sem hjálpar svo oft og svo vel
eg ætti' ekki þess vegna að leyna.
Ef einhver í gáleysi glæp hefir drýgt
hann getur til Suðursins strokið
frá hegning og því sem við þrautir er líkt
og — þar með er hættunni lokið.

Eg veit að þín kona er göfug og góð
þú girnist ei aðra að hreppa.
Ef þú værir vestra með fjörgamalt fljóð
og frá því þig langaði' að sleppa —
þú fengir þér aðra og færir á brott
og framar þig mundi ekki iðra,
því þú fengir alt, sem er yndælt og gott,
í auðugu fylkjunum syðra.

En þú gætir, kunningi, konuna mist,
—af kærleika mundir þú brenna—
og þú yrðir aðra að fá þér sem fyrst,
því fádæma' er leitt milli kvenna.
En fyndist þér særa þig fjöturinn Jón,
og friðurinn minkaði óðum,
þá væri þér betra með vit þitt og sjón
að vera á Kanada slóðum.

Það dýrmæta land sem að drottinn oss gaf
er dæmalaus alsælu-staður.
Og siglir þú, vinur minn, vestur um haf,
þá verður þú auðugur maður,
því illgresi vex ekki í ökrunum þar
og uppskeru fær hver sem sáir,

en fjárkláðans held eg þú verðir ei var,
—í vestrinu klóra sér fáir.

Og síst ættu Danir að sjúga þitt blóð
og svifta þig frelsi og næði.
— Hve gleðilegt er að hin íslenzka þjóð
má öðlast hin vestrænu gæði!—
þar vélarnar hreyfast af vindi og eim
og vinna um nætur og daga,
og kunnug er mjög hinum mentaða heim
vor margbreytta framfara saga.

Og mundu það, vinur, að mjöl er þar nóg
og málmur í sérhverjum steini,
og heilnæmt er loftið í laufguðum skóg
þar leikur sér andsvalinn hreini.
Og „Forðabúr Heimsins" er fold þessi nefnd,
sem faðmast af eilífum degi,
og þar ríkir jöfnuður, framsókn og fremd
en fátæktin þekkist þar eigi.

Og full eru svínin af floti og tólg,
þau fullnægja tannlausum gómi,
í kúm eru fimtíu merkur af mjólk
á málum — og helmingur rjómi.

Já, búskapur vestra er betri en hér
og byrgari' af korni og heyi.
Þar verða menn eldri en vanalegt er —
þar varla ber til að menn deyji.

„Og sólin ei hverfur né sígur í kaf"
hún svífur um nætur og daga
um skýlaust og blikandi himinsins haf
og hún verður aldrei til baga.
Og eldflugur þjóta með glampandi glóð
um geiminn á sérhverju kveldi
og olíulampinn er löngu úr móð,
þar lýsir af fleira en eldi.

Og finnist þér ríkur að rökkri þinn bær
er ráðlegast þangað að fara,
þar kúgað þig aldrei neitt yfirvald fær
og útgjöldum þarftu' ekki að svara.
Og þar verður enginn að auðmannaþræl
því alt er á jafn-háu stigi.
Og fari til Helvítis sálin mín sæl
ef segi' eg þér nokkura lýgi.

Og bændurnir hallir í blómguðum skóg
þar byggja úr járni og grjóti,

og haggast né fallið þær fá ekki—þó
úr fallbyssum á þær menn skjóti,
þær fá ekki hrunið né fokið um koll,
þær fá bara að standa í næði.
— Í Kanada finnurðu' ei for eða poll,
öll foldin er bygginga stæði —.

Og skemtanir, veizlur og hátíðarhald
vér hefjum á sérhverjum degi
og blaktandi fánarnir vitna um vald,
en voða oss boða þeir eigi.
Vort blóð rennur örugt við bumbunnar slátt
og bannar að trúa á grýlur,
og samstemdu lúðrarnir hafa svo hátt
að hljóðið berst sjötíu mílur.

Í Kanada er alt, sem að fólkið vill fá,
þar fossar úr björkunum vínið
og tjaran og meðölin myndast þeim á
og mosinn og ullin og línið.
Og flugurnar hunangi hella í oss,
í hálsklúta ormarnir spinna,
og lýðurinn dansar og drekkur sitt hnoss,
en dýrin alt mögulegt vinna.

Svo vex þar í görðunum tóbak og te
og talsvert af eplunum líka,
og nóg er af sykri í sérhverju tré,
sem seður og gerir menn ríka.
Og ókeypis fást þar til eldsneytis kol
og annað sem kyndarinn brennir.
— Og meyjarnar eignast þar meinlausan bol
sem mittið, til fegurðar, grennir —.

Þar fær þú að tala við fjarlægan mann,
á fund hans þú þarft ekki að ganga,
Á íslenzku geturðu hjalað við hann,
sem 'hefðurðu' hann fast þér við vanga.
Þér hættulaust alveg að titla' 'ann eg tel
og tóninn að senda honum háan —
hann nær ekki til þín, þú veizt það svo vel,
þótt vilji hann gefa þér á 'ann.

Þar djarfast og hæst hefir hugur minn lyfzt
og hvergi mun fósturjörð betri;
og blessaðar stúlkurnar geta þar gifzt,
með guðshjálp, á sextánda vetri!
Þar getur hver tíræður bóndi átt barn,
úr barneign fer kvenfólkið ekki.
Og enginn er maðurinn metorðagjarn
á meðal þess fólks, sem eg þekki.

Eg ætlaði fleiri að finna í dag,
þeim færa heim sanninn og trúna.
Það var þér í sannleika sjálfum í hag,
að sitja og hlusta' á mig núna.
Mitt málefni aldrei sé árangurslaust
né íslenzka skapinu fjarri!
Eg „sé þig" í Kanada heilan í haust,—
Eg hitti þig Paradís nærri."

---

III.

## Vesturförin.



En Jón var með uppréttan huga og háls
og hafði gegn freistingum vörn.
Í augum hans Kanada fríð var og frjáls
og framtíðarland fyrir börn.
Hann festi ekki trú sína öllu því á,
sem átti að villa honum sjón.
Á skarplegu augunum skýrt mátti sjá,
að skynsamur maður var Jón.

Hann þekti margt fleira' en sitt fósturland kært
því fræði hann margsinnis las.

Hann fann það, að Kanada fjölda gat nært
og framleitt margt betra en gras.
Og vegir til mentunar vissi hann bert
að voru' handa börnunum þar
og fyrir þau áleit hann fallega gert,
að flytja sig vestur um mar.

Margt heyrði hann talað um skálkanna skjól —
hve skáldlegt og fróðlegt var það.
Þótt framast hann elskaði frelsisins sól,
ei föntunum lausnar hann bað.
Hann taldi þá ríkjandi réttvísi smán,
sem ráðið er að eins af fé.
— Þeim fátæka' er hegnt — ef hann fær ekki lán,
er flengdur, þótt heilagur sé!

Að sjálfstæði margs var að líða undir lok
á landinu heima, hann sá.
Og vissi að beygjandi ánauðar ok
á elskendum frelsisins lá,
og gat ekki vitað neinn vinnandi mann
þar verða að byrði síns lands,
og víðlenda óbygðin vestra 'ann fann
var verkefni dugandi manns.

Og svo var það fróðlegt, að ferðast um lönd,
hann fann 'ann var heimaalið barn.
— Ef holdið er laust við öll hindrandi bönd
er hugurinn framsóknargjarn.
Hann afréð að fara til framandi lands,
að fullnægja kröfum síns bols,
því lítið var orðið á óðali hans,
um áreynlzu krafta og þols.

---

Einn morgun var hópur á heimili Jóns,
þá höfðu menn krónurnar til,
og þeir voru glaðir í faðmi síns fróns,
þeir fögnuðu sumarsins yl.
Og margur fór þaðan með kind eða kú
eða klár, sem var fríður í sjón.
Þeir voru að kaupa hið veglega bú,
— til Vesturheims ætlaði Jón.

Þeir hleyptu um grundirnar hestum á skeið,
þá höfðu þeir ódýra keypt.
Jón virti þá fyrir sér, vissi um leið
að verzlunin hafði sér steypt,
því eignin hans seld fyrir örlítið var
og all-margt hann fátækum gaf.

— En borgun að fullu sá fær ekki þar,
sem fara vill landinu af.

Hann treysti á verðmæti' 'ins vestræna lands
og vonin gaf sálu hans ró,
því fánýtir voru nú fjármunir hans,
— en fátækir oft hafa nóg.
Hann beið eftir skipinu léttur í lund
og lék sér um blómgaða storð;
tvo reiðhesta skaut hann og gróf þá í grund
og gekk síðan hljóður um borð.

Á úthafsins bárum fór skríðandi skip
úr skjóli hins fjallkrýnda lands.
Jón kvaddi sitt ættland, ei sá á hans svip
þótt sár væri tilfinning hans.
En fólkið sem kysti þá kinn hans og mund
var konan hans, blómleg og hýr,
ein gjafvaxta dóttir, með lífgandi lund
og ljóshærðu drengirnir þrír.

---

Í skínandi vestrinu loksins sást land,
sem laugaðist hunangi og mjólk
og vafðist í geislanna geislandi band,
—þá gladdist hið íslenzka fólk.

Hve dýrðleg og töfrandi sýn var að sjá
við sólgylta himininn þar,
og Jón lyfti brúnum mót birtunni þá
og brosti, því glaður hann var.

Því var ekki trúað að væri í heim
svo vænlegum, refur og örn,
og hann var sem Eden í augum á þeim,
sem unglingar voru og börn.
Þar lífstréð með aldinin sætustu sást
í sólskini bera við loft.
Hver von sem á kviksandi bygðist, þeim brást,
— Svo bregðast mér vonirnar oft —.

Og saga um vesturheims ferð þessa fékk
ei fleira í hámæli lagt,
en allskostar vel þessi vesturför gekk,
það verður í fám orðum sagt.
Svo fanst honum Jóni það ráðlegt og rétt
að reyna sitt atgerfi á ný
og vildi til ábúðar velja sér blett
og verkefni, nýlendu í.

---

## IV.

## Landnámið.

Norður með Winnipeg-vatni, á vesturströndinni
lágri
lengra en auga eygir, óslitin grænskógabelti
breiðast vítt um völl. Þar viðrar höfuðið öspin
hátt yfir greniskóg gnæfandi, gildvaxin bein og
drifhvít.
Þar er sem öspin upp, frá algrænu hálendi rísi.
Bjarkir kríthvítar, krýndar krónu angandi laufa,
gefa börk til bálkveikna, báta, þaks og tjalda.
Askur er þar og eik, álmviður, mösur og fura.
Skógar-ylmurinn berst með blæ til báta, er sigla
norður og suður, langa leið frá landi' úti' á djúpi.
Björninn hefir sitt ból, í beltum myrkviðar þykkum.
Þar eru hundraða hjarðir hinda, rándýra og fugla,
leggjandi hold og húð í hendur íbúa landsins.
Þar syngja þrestir á vorin sín þýðu, arfgengu
sönglög;
blærinn í flautuna blæs—blístrar og hvín í trjánum.
Brimhljóðsins undirspils-ómur — orgelsins fimbul
bassi—,

þungur sem þrumugnýr, blandast þjóðsöngum merkur.
Fagur er vatnsins flötur, fjalsléttur hreinn og glælygn.
Dýrðlegt er bládjúpið bylvakið, brimlöðrandi og hvítfext.
Víðirtanginn sem útréttur armur, í ofviðra háska,
bjóðandi höfn og hlé, hopandi snekkjum frá volki,
láta til skiftis skella skafl og boða á hliðum.

---

Komið var kuldalegt haust, er kuggurinn sigldi norður,
fermdur íslenzkum innflytjendum, ungum og gömlum.
Jón var með konu og börn um borð. Byrinn í seglum
dansandi fleyi fram um freiðandi djúpið ýtti.
Sól var sigin til viðar. Í sorta húmsins við austur
örlaði' á tindrandi tungls töfrasprotum og bogum.
Öldurnar urðu bjartar, sem íslenzkt spesíusilfur,
samhringing glitrandi glasa glumdi' yfir kristalsborði.
Bjart var til lands að líta, þar loguðu utan við tjöldin

langeldar rauðskinna. Reykur þar reis og dreyfð-
ist um geiminn.
Hlátrasköll og skothljóð, skinnbumbu-dunur og
hundgá
barst til skipverja, er skeiðin var skamt fyrir
norðan tangann.
Bezt þeim leizt þar að lenda,—á langeldana þeir
stefndu.

---

Kuggurinn nálgaðist strönd. Þar stóðu í star-
þéttri fylking
rauðskinnar hljóðir og horfðu á hópinn sem reri
að landi.
Hundarnir geltu, ýlfruðu' og ólmlega þustu
ofan fjörur og eyrar, úfnir með gínandi trýnin.
Loks á landsteina rakst, svo lá við að brotnaði
stefnið.
Þornaði brunnur þagnar, þjóðflokksins óðamælgi
hundgeltið hnóma við, hamaðist, gall og buldi.
Skipverjar skildu ekki orð, en skýrt og hispurs-
laust fanst þeim
hundarnir þýða hrókaræður húsbænda sinna.
Aldinn rauðskinni einn gekk fram og ýtti frá landi.
Skipverjar knálega knúðu knörinn að landi aftur.

Jón hljóp skjótlega' úr skutnum upp og skelinni
brýndi
einn saman upp á þurt, svo að eins vatnaði um
stýrið;
hundana hopa lét á hæl fyrir árarblaði,
tók af sér hattinn og heilsaði handabandi með og
kossi
rauðskinnum öllum. Þeir hurfu nú heim til hý-
býla sinna.

---

Frostkalt og framorðið var. Fólkið langþreytt af
vatnsferð,
kveikti sér bál og kynti og ketil á hlóðir setti.
Tjöld voru hæluð og toppstöguð, tekin úr kistun-
um nestin,
svo var etið og sopið og setið í kring um eldinn.
Þá var í fámenni flutt hið fyrsta Íslands minni
vestan vatnsins — og hafs, af Vestur-Íslendings
munni.
Margs var að minnast og sakna, mörgum vökn-
aði' um augun
Þá mælti Jón til fólksins: „Fagurt er framundan,
sjáum!
Verum hugprúðir vinir, vér erum hingað fluttir
til þess vakandi að vera, vinna, ryðja merkur,

tilreiða ættingjum tryggan stað—þeim trúir verum!
Rúmt er hér um oss, frjálst og frítt, sjá fiskisælt
stórvatn
veitir ærinn auð, þeim öllum sem hafa mansskap.
Þó oss endist ei aldur að uppskera það sem vér
sáum,
sérhvert verk, sem vér vinnum, skal verða niðjun-
um launað.“
Svo mælti Jón og saup að botni, sætt eins og
hunang,
brennheitt kaffi og bauð úr bauknum öllum í nefið.
—Úti í eyðiskógi var ömurlegt. Haustnóttin
kalda
hrolli, skjálfta og skelk skaut í unglinga bringur.
Brauð var ei nóg til næsta máls, en net biðu
dagsins.
Engum kom dúr á auga alla þá löngu haustnótt;
stund eftir stundu leið, en stöð var nóttin og
blýfætt.
Loks af degi lýsti, ljós-örvar flugu um geiminn,
sendar af beinskeytum bogvaldi, blessandi
morgun-röðli.
Fuglarnir fóru að syngja, fagnandi degi nýjum.
„Eldgamla Ísafold“ söng íslenzki landnema-
skarinn.

Þá var fjórraddað saman sungið um sólarupp-
komu
hátt, með hreimfögrum róm: „Hvað er svo glatt",
eftir Jónas.
Stormurinn básúnu blés, brakaði' og hvein í
trjánum.
Brimhljóðsins undirspils ómur—orgelsins fimbul-
bassi,
þungur sem þrumugnýr, blandaðist þjóðsöngum
merkur.
Alt var í nánasta samræmi, samspilið sjötíu-raddað.

---

V.

## Heimilið nýja.

Um haust, er Leifs 'ins heppna grund
var hvít sem fílabein,
við breiða á í bjarkalund
á bjálkahúsið skein.
Það horfði móti himins sól
og hennar blíðu naut.
Þar virtist mörgum vera skjól
er voðastormur þaut.

Þar ekkert gull var innan stokks
og enginn sparikjóll,
en alt ,,frá prjónum upp til rokks"
— og eldavél og stóll.
Þar yfir flet var brekán breitt
og borð við gluggann stóð
og hreint og frítt var alt og eitt,
á alíslenzkan móð.

Og konan vann hvern virkan dag,
hún var svo heilsugóð;
hún hafði göfugt hjartalag
og heitt og fjörugt blóð.
Og synir hennar höfðu lært
af henni, að breyta rétt
og eins, að vinna var þeim kært,
það var þeim jafnan létt.

Og hann, sem aldrei áður vann
gekk iðjumannsins leið
og nóg af fiski hafði hann
og hungri aldrei kveið.
Hann feldi þrátt að foldu við
og flutti til sín heim.
Til hjálpar átti 'ann ekkert lið,
en, afl í höndum tveim.

Mót þjóðasiðum þessa lands
hann þæfði hvern sinn sokk.
Hún kunni að prjóna, konan hans;
og kemba' og spinna á rokk.—
Svo fór hann oft á fóta þóf
og forna rímu kvað
og fróðleikstal um tóskap hóf
við tækifæri það.

Hann átti í fjósi kind og kú,
í kvikfjárræktar átt
þeir kostagripir, björg í bú
og blessan fluttu þrátt.
Og Jón var hygginn, hafði ráð
sem hérum reyndust köld,
þá voru þeir hans villibráð
hvert vetrar helgikveld.

Og þegar vorið vetri hratt
og vatnið ísinn braut
og gras í sólskins spori spratt
og sprakk út blóma skraut,
þá bar hann vel á sáðgarð sinn
og sjálf var moldin dökk.
Er hrundi regn, við himininn
hans hjarta sagði: þökk.

Og þegar hey-önn gekk í garð
var gott og nóg að slá,
og gras að foldu falla varð
því fram hann óð með ljá.
Og af því svitinn um hann rann,
úr ytri brókum fór,
en nærbrækurnar huldu hann
svo hvítar eins og snjór.

Hann lék sér hitans hættu við
að hinstu dagsins stund,
svo lagði hann sig á hægri hlið
og hneig í sætan blund.
Hann dreymdi' um Íslands afturhvarf,
um Íslands stjórnar bót,
hann dreymdi' um sitt æfistarf
við Íslendínga-fljót.

Hann lagði netið út í á
og ótal bröndur dró
og mörg ein rjúpa sem hann sá
fékk sár af skoti' og dó.
Og þá var glatt í koti karls
á kveldin borðið við
og loks var beðinn andi alls
um eilíft líf og frið.

En engin skóla stofnun stóð
á storðu þar í grend
og enska tungan—hún var hljóð
og hún var engum kend.
En framtíð, sér í fangi bar
öll fræði og tungu mál
og allra manna áform var
að efla líf og sál.

---

VI.

## Bólan.



Svörðinn faldi fimbulvetrar snær,
fokið var í skjól á hendur tvær,
feigðargustur sinni reginreið
renndi að norðan suður beina leið.

Hvílík nótt! Ó, hvílík dauðans nótt!
heljar myrkrið það kom alt of fljótt
skímulaust og þykt og þúsundfalt,
þungt sem blý og reimt og grimt og kalt.

Þessa yztu, óttalegu nótt
engri sál í húsi Jóns var rótt—.
Að hans dyrum engil dauðans bar
inn kom drepsótt — bólan gisti þar.

Lögbók dauðans lögð var þar á borð.
Lesið var til grunna hennar orð,
lögmáls orðið, skilnaður, var skráð
skírum stöfum—verður aldrei máð.

Inni þar var hljóðnað kvala vein,
kyrt var alt sem dauðra manna bein.
Þögnin klæddi þriggja bræðra lík
Þar var grátið lágt, við rúmsins brík.

Trúin hafði í betri vitund breyzt
bygðin féll, sem vonin hafði reist.
Dauðinn hafði beztum fjársjóð flett
foreldrana, við hinn æðsta rétt.

Foreldrarnir báru þetta böl,
báru í eining þessa sáru kvöl.
Þeirra grátur, samstemt sorgarlag
sveif í lofti hljótt, við dauðans brag.

Fyrir þá sem fallnir voru lágt.
forðum sigldu þau í vesturátt,

burt frá sinni öldnu ættlands strönd.
yfir hafið, til — að nema lönd.

Af því leiddi ekkert nema tap
óttalegt var þetta stjörnuhrap !
Það var ekki fyrir sjónum svif
silfurstraums, né geisla rennidrif.

Það var vona himintungla-hrap,
húmt og grátlegt þriggja sona tap.
Það sem áður virtist ekki valt,
var nú hrapað — fyrir fult og alt.

Þó var ekki að heyra æðruorð.
Úti þaut, og myrkur huldi storð
þar til læstist geisli gegn um húm,
gerði breyting loks á tíma og rúm.—

Dagur rann með vilja von og þrótt,
von til lífsins eftir dauðans nótt.
Blikaði yfir vetrar veldisstól
vonarinnar ljós og morgun sól.

---

## VII.

# Flóðið.



Af skóggyðju kórónu-skautið var fokið;
á skjólstöðum hálmur um sjálfan sig valt
og náttúru-hörpunnar hásöng var lokið;
á hauðri var þögult og dapurlegt alt.
Og vindurinn andaði ískulda-svalt,
sem efnd væru' 'ans seinustu köf
í norðri, við heimskautsins höf.

Og gráskýjalagður í hánorðri hófst,
í hvolfinu tættist og kembdist og spanst,
í klæðisdúk, vaðmál og einskeftu ófst;
hvert álnanna hundrað á svipstundu vanst.
Með húmskuggum tunglsljós í feluleik fanst
og faldist á lofti og grund,
og ísjökum silfraðist sund.

Af aðfalli þrútnaði vatnið og vall
og valt yfir landið í hvínandi straumi
og langt inn í skóginum svarraði, svall
og suðaði dimt undir veðursins glaumi.
Og bjarndýrið vaknaði' af vetrarsvefns draumi

um viðburðinn, trygði sér hlé
og hliðskjálf í hávöxnu tré.

En vandann að Jóni sem vetrarsnjá hlóð,
um vangana hoppaði kyljunnar svipa,
og krapann í mitti um engið hann óð
til íveruhússins, með fæð sinna gripa,
því öryggisrúm var ei annað að skipa,
— þar eygði ekki þurlendisblett.
En húsið hans stóð upp á stétt.

Þó klakavatns-öldurnar brytu' á hans bol,
sem byrðingur röstina ótrauður hrauð 'ann.
Það fanst honum stinga sig hnífi á hol,
að hugsa um fénaðinn berjast við dauðann
og samfrjósa vatninu, engan blett undan
til athvarfs sér neinstaðar finna.
— Hann saknaði dýranna sinna.

Og það var sem fléttuðust straumhljóði stunur
er stormurinn sveiflaði klakaðri björk,
og ísjaka hringing og hrannanna dunur,
sveif hátt yfir allsnaktri, drjúpandi mörk.
Og nú var hann Jón eins og Nói, í örk,
við nýlendusvæðisins sporð,
—með búpening allan um borð.

Og það var nú drukknað af hjörðinni hans,
sem hafði ekki komið í leitirnar strax.
Í flóðinu ónýttist afrakstur lands
og alt, sem hann reyndi að taka til bragðs.
Og breytinga, vakandi beið hann til dags,—
þá blikaði sólskin um fjörðinn,
sem frosinn var fastur við svörðinn.

Nú var hann á *Islandi.* Allsnægtaþrot
og allsleysið þarlenda fast svarf að honum,
en lífsreynzlu kenningar klauf hann sem hnot
til kjarnans, og stakkana sneið sínum vonum.
Sem gaddfreðin tár láu svell yfir sonum
og söknuður reikaði um pall.
— Hve stöðugt og fast ertu, fjall!

Jón vildi ekki láta nein froðuspor finnast
á flóttaleið suður í heitara land.
Þeir flýja' ekki landið, sem flýja og ginnast
af fjárvon og annars lands skildinga sand.
Þeir flýja sig sjálfa og stýra í strand.
— Við stóna 'ann lét sér því hlýna
og þurkaði sokkana sína.

———

VIII.

## Eldurinn.



Á fjarlægar útkjálka óbygðir lands
féll askan af brennandi skóg.
Um loftvegu hraðfara reykurinn rann
og rökkri á jörðina sló,
en helbjarmi rauður á valköstum var
þar viðurinn skrælnaði' og dó,

Því herstjórinn Kári með leiftrandi lið
um landsvæði herskildi fór,
að herja á alt, sem að varnarlaust var;
við vargaldar lögmál hann sór.
Því var það, að skógur að vellinum féll,
þótt væri hann harður og stór,

Í fallandi bjálkunum brakaði og gnast,
þá buldu við dynkir um leið,
sem blönduðust saman við bresti og þyt,
er bálið að rótunum skreið
og hávöxnu björkunum bylti um koll,
—því brautin til sigurs var greið.

Og skepnurnar fórust á flóttanum loks
er féndurnir umkringdu þær,
en fuglarnir svifu svo langt upp í loft
sem langsýni mannanna nær.
— Ef enginn er vegur til varnar á jörð
er vængjuðum himininn fær.

Og eftir hvern brennu og byltingadag
fór blysför um skógarins torg,
og logarnir þutu frá tá upp í topp
á trjánum, með herlúðurs org.
Og dagsetursrökkrið var rautt eins og blóð
með rákir af dökkleitum korg.

Í skóginum umhverfis blómgaðan blett
sem byggingar Jóns stóðu á,
um hríð hafði eldurinn leikið sinn leik
við lyngið og grenitrén há.
En ekki stóð Jóni af óvini þeim
neinn ótti er hægt var að sjá.

Þar var ekki á orustum augnabliks hlé
né uppihald voða og tjóns.
Og þá meðal annars að herfangi hyrs
varð heimilisbyggðin hans Jóns,

því enginn var heima og engin var vörn
gegn árás hins skæðasta ljóns.

Sem spríklandi höggormur hlykkjaðist bál
um hliðarvegg, rjáfur og stafn.
Og einyrkjans handaverk öll voru gleypt
sem ylgjar og hræfugla tafn.
Og reykurinn uppi, yfir rústunum flaug
og rambaði í kring, eins og hrafn.

Að hársrótum sviðinn var svörðurinn þar
og svertur hver einasti steinn
í öskunnar gráa og glóðheita skafl
var grafinn hvers eldibrands teinn.
Á klukkustund einni það eldurinn reif
á ári sem reist hefði ei neinn.

Og búandans girðingar, birgðir og hús,
það brunnið ei hefði svo skjótt,
ef svitinn hans hefði ekki þornað á því
er þar var sem dögg eftir nótt.
Hann úthelti honum með erfiðis raun
og úthelti um leið sínum þrótt.

Og heim er hann kominn frá heyönnum var,
til hvíldar, um dagseturs mund,

þá hristi hann kollinn og kvartaði ei,
var kyrr þar og hljóður um stund.
Það alt sem hann átti til bjargar og bús
var brunnið — hvert einasta pund.

*Arnljotur B. Olson*

---

IX.

## Guðrún.

Verið hef eg í Winnipeg-borg
vetur og sumar.
Þar hef eg bjartasta sólskinið séð
og svartasta skuggann.
Fellur á huga minn húm
er hvarfla eg einn um torgin,
sagan um Guðrúnu gægist þá inn
um glugga míns hugskots.

---

Nær sem hinn víðfleygi vindur
Sér vogar að leggja' inn í þreyngslin,
sorglega þýtur í turnum, trjám
og talþráðakerfi.
Sagan um Guðrúnu er sögð

af sérhverju dauðsfalli' og líkfylgd.
Söngur er um hana sunginn
af syrgjendum einum hljóðrétt.

Bræðurnir hennar úr bólunni dóu.
Af börnunum fjórum,
lið hún ein til að elska
í utlegð föður og móður.
Eftir í Winnipeg var hún
í vist, þegar ástvinir hennar
sigldu til Ný'íslands, norður vatn,
til að nema sér bújörð.

Guðrún var ljósanna ljós,
listaverk þess, sem skapar,
augu' hennar bládjúp, sem Vínlands vötn
og vangarnir rjóðir,
hárið glóði sem gull
og geislandi liðaðist niður.
Tíguleg var hún sem „Fjallkonan fríð",
síns fósturlands ímynd.

Slétt var og beint hennar bak
og barmurinn hvelfdur og mjúkur.
lyptist sem blævakin bára
og leið eins og lognalda niður.

Hávaxin, grannvaxin, handsmá
og hljómþýð í máli, var Guðrún.
Komin frá hörpu streng hjartans
var hláturinn á hennar vörum.

Létt var hún Guðrún í lund,
hún var lítillát, háttprúð og saklaus,
meirihlut mannanna góðan
hún áleit og vantreysti engum.
Engann á jörðinni óttaðist hún
og engann á himnum,
því henni trúin á guð í því góða
var gefin í tann-fé —.

Winnipeg var aðeins þorp
er vestur hún kom yfir sæinn,
ómælt var stæði þess, strjálbygt og rúmt
sem stjarnanna geimur.
Smáhýsi stóðu á stangli
sem stoðir sanninda nýrra.
Fáskrýdd og stutt voru strætin,
sem stundin frá vöggu til grafar.

Alt var í uppgangi þar,
því auðurinn vagnana knúði
afrekum hlaðna, á almennings braut,

sú eimreið hét Framför.
Hrífu sem kirknanna klukkur,
er kalla til heilagra tíða,
stundanna klukkur, sem kölluðu alla
til kaupgjalds og starfa.

Alt var á flugi og ferð.
Í fjárdráttar áttirnar þúsund
leiðbeindi áttanna-viti, sem var
hin vestræna þekking.
Silfri úr uppsprettum auðsins
var ausið, sem vatni úr lindum.
Heitið var sporvögnum, steind voru stræti
og stórhýsi smíðuð.

Fjörið í fólkinu svall,
það fann til síns lífs eins og hindin,
þegar af blá-kletta stalli á stall
hún stekkur á vorin.
Áfengi ótta og vonar
var alment í þorpinu drukkið.
Einstaklings gróði var annars tap
að alsherjarlögum.

Liðið var Guðrúnar sextánda sumar,
hinn seytjandi vetur
gekk eftir haustið i garð,

með gleðileg jól og ný ár.
Ei hafði 'ann Guðrúnu gjafir að færa
frá góðvildar stöðvum.
Einmana, fátæk og íslenzk hún var
meðal enskra, í vistum.

Enskuna kunni hún ekki
og enginn í húsinu skildi
hljómskíra málið hennar
og heyra vildi það enginn.
Fyr hafði 'ún aldrei á ævinni verið
hjá ókunnu fólki
föðurhúsum svo fjarri
og faðmi ástríkrar móður.

— Vinlausum veturinn er
á vesturheims sléttum kaldur,
Langi-frjádagur, fólki því
sem hvergi á heima.
Öreigum atvinnubann
og óvinur starfsamra handa.
Bjargráð skyndileg skína
í skamdegis úlfakreppu.

Seytjándi veturinn var
hinn kaldasti á hennar ævi,
kalt var sem ís hennar einrúm.

Af öllu var fjarvera köldust
foreldra hennar og frænda, sem áttu
við fátækt í höggi.
Einveran saltaði ísinn
sem umkringdi lífið og þorpið.

Þorri reið Grána svo geyst yfir storð
að gnötruðu bygðir.
Fákurinn nepju úr nösunum blés
sem næddi inn að beini.
Þorri var ásýndum ýgldur
með úfið og flaxandi hárið,
hríslaðist sindrandi silfurhvítt skegg
um svellaða bringu.

Hrímfaxa hleypti á skeið
frá heimskauti 'in kaldráða Góa,
hristi úr drellinum heimskauta frostið
og heimskauta snæinn.
Einmánuður reis upp
til að útbýta hretum og vindum,
þá var alt fullkomnað. Veturinn var
til brottfarar búinn.

Svo kom hin suðræna dís,
hin sólfagra himneska drottning,

purpuralíni og kransliljum klædd,
með kórónu úr gulli.
Harpa lék fagurt á hörpu
og himininn dundi af söngum,
ilmdropum helti 'ún á hauðrið
til hressingar lifandi verum.

— Vorið er velkominn gestur
til bústaða jarðyrkjubænda,
þá ekki síður til fólks sem er fátækt
í framandi landi,
þess sem er húsvilt og nakið og neytt
til að neyta þess brauðs, sem
stýft er við neglur á stelandi hönd
hins stolta auðmanns.

Vorið er lífgjafi landsins,
læknir þess háa og lága,
hjúkrunarkonan, sem hlynnir að þeim
er hníga í valinn,
gyðjan, sem grafirnar skreytir,
er gleymdar af fjöldanum troðast,
huggari þeirra sem hryggjast
í helkuldanæðingi lífsins.

En þetta velkomna vor

var vinurinn eini, sem gladdi
sjálfkrafa' íslenzkann einstæðing;
sem ekki var heima.
Lífið fanst Guðrúnu léttast
og leiðindin smámsaman þverra,
dagurinn lengjast og ljósið
á lampanum bjartara verða.

Guðrún sem vorgyðjan var,
hún var sem hin fegursta draumsjón.
Mörgum varð starsýnt stundum
á stúlkuna þá sem von var.
Margur á dyr hennar drap
en datt í stafi, er hún lauk upp,
alt eins og tréfata' í sólskini seydd,
sem sundrast við átekt.

Einn var nú Guðrúnu orðinn kær
af innlendum sveinum.
Kærleikann auglýstu augun,
hin íslenzku' fréttablöð hjartans.
Auglýsti málugur munnur
þann kærleik sem hann bar til hennar.
— Síðan, mér kærri er ómálga ást,
en ást sem er málhreyf.

Fríður var sveinninn í sjón
og dökkur á brúnina og brána,
hvítt var hans andlit sem óskrifað blað
og ennið hans boghvelft.
Augun hans gátu' ekki í augu horft,
voru allsstaðar, hvergi,
staðnæmdust hvergi, horfðu á alt
og horfðu á ekkert.

Fjörugur var hann og frískur sem hross
á frjólöndum Texas;
lágvaxinn, grannvaxinn, léttur á vog
og lítill á velli.
Heyrðist ei fótatak hans
þótt hlypi hann sprett yfir steingólf.
Hann var á flugi sem fluga,
er flýgur á meðal blóma.

Hneigður til vínnautnar var hann
og vanur peninga spilum,
vinnunni mótfallinn mjög,
en mátti við hana sættast,
hvenær sem skuldanna hundrað pund
á herðar hans lögðust.
Vinnan var athvarfið eina,
er að honum féleysið þrengdi.

Þrátt fyrir alt og alt,
hún elskaði 'ann heitara en líf sitt,
fús hefði 'ún fyrir hann dáið
að frelsa 'ann, ef þörf hefði boðið.
Blettina 'ans breiddi hún yfir,
byrgði þá fyrir sér sjálfri,
vildi ekki, vildi ekki sjá þá,
vissi að þeir voru dökkir.

Aldrei í sjónauka sá hún
ókosti þess er hún unni,
þeir urðu litlir, er leit hún þá á
í ljósi síns kærleiks.
Mannkostir hans urðu miklir,
er mættu þeir tilliti hennar,—
ástin var stækkunar-gler sem var greypt
í gull hennar sálar.

— Oft er sú persóna elskuð
sem verðskuldar ekki þá viðhöfn,
orsökin til þess er ókunn
en afleiðing þess er oss kunnug.
Áhrif, sem utanað koma
og eldinn í hjartanu kveykja
aðeins í augnabliks svipan,
eru efni til sprenginga búin.

Ást sem af hulinni orsök
fær yfir oss vald eins og dásvefn,
rænir oss sanngirni og sjón
og sviftir oss heilbrigðri dómgreind.
Ógæfuleiðina lýsir hún oss
með lampa, sem veldur
sjónhverfing. Sjáandi vér
ei sjáum, en inst í oss skiljum.

Víst er að betri vitund
er sjálfkjörinn vinur á verði;
henni er vikið úr hugskotum, svo
hún hneykslum ei valdi,
rödd hennar niður vér þöggum, af því
vér þolum hana ekki.
Ástin oss sannfærir um
það alt, sem vér viljum að satt sé.

Þannig er fólksins fyrsta ást,
hin heitasta í heimi.
Fullkomin er hennar sæla, ef hún sjálf
á samræmi' að fagna.
Sé hún ei launuð í sömu mynd
er hún sársaukans móðir.
Oft er hún dauðans orsök,
hún er eldur sem síðla slokknar.

Guðrúnar ást var sú ást sem var heit,
sem aldrei gat kólnað.
Vei þeim, sem átti ekki strengi er stemdu
við strengina hennar!
Ógæfa beggja var ástleysi hans —
að eðlis lögum.
Enginn er sæll nema sá,
sem elskaður elskandi lifir.

Sæt voru orðin, „eg ann þér",
frá elskanda kyssandi vörum,
sögð, meðan augún voru aftur,
sem andmæltu þeim með rökum.
—Jafnvel þó blíðmælin beztu
séu búningur, uppgerð og smjaður,
hrífa þau saklausu hjörtun,
sem ómur frá ítalskri hörpu.

Blíðmæli hans urðu færri og færri,
er fram liðu stundir,
kossarnir stuttir, sem skambyssu skot
en skaðlegri langt um,
af því þeir voru það eitur,
sem orsakar kvalir og dauða
andans og ósjaldan holdsins,
í ásta og vonanna ríki.

— Vinmælin hrífa manns sál ekki síst
ef sjaldan þau klingja.
Sætast er hljóðfæra hljóðið
sem þagnirnar skifta í þætti.
Margfaldast gildi 'ins góða,
er gerist það fáheyrt og sjaldséð.
Dýrast er gullið sem grjótinu er í
og sem grafa þarf eftir.

Naumgjöfull var hann á vinmæli sín,
hann verðlagði sérhvert.
Þau urðu föl fyrir glæsilegt gjald,
sem skynlausar skepnur.
Hitt var þó oftast, að hann
með sverðseggjum tungunnar særði
íslenzka ástmeyjar brjóstið.
Hún úthelti þá sínum tárum.

Það sem hann heimtaði' af henni var,
að hún 'hætti að lifa
íslenzku Íslendingslífi,
en upp aftur risi
ummynduð, endurbætt, ný
til orða og verka,
—dæi og upprisi aftur
sem Adam hinn gamli í vatnskírn.

Svo varð hún loks, að hans lögum,
að vanrækja alt, sem var íslenzkt,
forðast það fólk, sem var íslenzkt
og tala' ekki íslenzka tungu,
bera sitt nafn fyrir borð,
en ganga með nafnskrípið "Gertie".
Alt þetta gerði 'ún af ást til hans,
en ekki af vilja.

Ástin að verki var
í víngarði sálarlífs hennar,
upprætti, brendi á báli þau tré
sem báru' ekki ávöxt,
honum sætan sem hunang,
en henni beizkara galli.
— Það sem einum er illt,
er öðrum drottinleg blessun.

Fram-undan fanst henni alt
svo fagurt og bjart. Og hún sá sig
sjálfa í anda, um aldingarð
af ástvini leidda.
Von um hans batnandi breytni
sló bjarma á framtíðar leikvöll.
Ástin sló ryki í augu,
ef örlaði á skugga dimmu.

Hvað það var yndælt að eiga að verða
hans einasta vina,
engillinn hans og athvarf,
ef mótlæti drifi á hans daga,
verndari hans gegn hættu þeirri,
sem honùm var nálæg.
Hvað það var yndælt, að hugsa,
um hamingju þá fyrir stafni!

Vormorgun einn þau voru
vígð í hjónaband, — samtengd.
— Maðurinn má ekki leysa
Meistarans rembi-binding.
Lögin fyrstu, sem gengu í gildi
í garðinum Eden,
steingrunnur er' undir stoðum,
sem fúnar á fót eru reistar.

———

Átti nú hugsjónin hennar,
að standa sem virkilegt vitni,
sannindamerki um sérhvað það
er sá hún í anda?
Áttu nú vonirnar allar,
að efna sín gullnu loforð?
Trúin á alt, sem var bezt og bjartast,
að breytast í vitund? —

Sumarið breiddi sinn vermivæng
yfir vaxandi þorpið.
Blærinn kom svífandi sunnan
og sópaði akbraut og sporveg.
Hádegissólskinið helti sér út
yfir húsþök og turna,
byggingaskuggarnir geislana gleyptu
á götum úti.

Fuglar í búrum fóru
samfagnandi að syngja,
þögnuðu, fundu' að frjálst er
föngum að eins að þegja,
fundu að það var frelsi
sem fangelsi gat ekki svift þá.
Ekki var æðra frelsi
þeim efni í söng og kvæði.

Mundu' ekki fuglarnir fleygu
fjarlægjast þröngu búrin
fengi þeir aftur frelsið
sem frá þeim var ranglega tekið?
Mundu þeir ekki á sumri syngja
um sólina' og frelsið
upp yfir ranglætið hafnir hátt
á himneskum vængjum?

Enda þótt dyrnar hefðu opnast
sem útilokuðu frelsið,
þung hefði Guðrúnu gangan
til frelsis úr fangelsi orðið.
Hjónabandið var handjárn
og haft, sem hún vildi ekki losna' úr,
ófrelsið sjálft var sumargjöf,
er hún sízt vildi missa.

Sumarið í hennar sál
var sumar sem tók ei enda,
það fyrir vetrarins veldi
var ekki dæmt til að þoka.
Árla, síðla, sumar og vetur
skein sólin á blómin,
eilífðarblóm hennar ástar,
sem upprætt ei gátu né fölnað.

Samtímis hennar sumri, var
hinn svalkaldi vetur
í hennar eiginmanns brjósti
og á hans tungu og vörum,
vetur án góðra veðra,
án vorkomu ilmandi gróðurs,
eins og á jöklum uppi
og *úti á* norðurhafs svellum.

Útlit þess blóms sá eg breytast,
sem blakti án skjóls móti norðri
hungrað og þyrst, eftir skini og skúr,
í skuggum sem féllu
fullvöxnum myrkviðum frá,
er fylkingu mynduðu að sunnan,
skýldu það sólunni sælu frá
um sumardag allan.

Guðrún breyttist sem blómið —
bliknaði af sömu orsök.
Vonbrygða vekjaraklukkur
vökt'ana af nýfestum svefni.
Andvaka horfði 'ún um öxl
á uppdregna ljómandi mynd, sem
framundan forðum hún sá.
Framundan dimt var nú orðið.

Heimili átti hún ekki
í anda, vonum né heimi,
hún var síns eiginmanns athvarf,
athvarfslaus sjálf var hún jafnframt.
Hún hafði margreynt að lýsa 'onum leið,
sem lá upp frá djúpi
spillingar hans, en hann
fékk ofbirtuna í augun.

Stöðugt vann hún í vist
og vakti langt fram á nætur.
Laun hennar urðu lyklar
að lífsbjörg hans og frelsi.
Fyrir þau veitti hann vín
og vindlinga sér og öðrum.
Spilaborðsholurnar heimtuðu
alt, sem hann hafði afgangs.

Hvað hefði um hann orðið,
ef átt hefði sjálfur að halda
lífi í líkama sínum
og legið ei öðrum á höndum?
Hann hefði ef til vill starfað, strítt
mót straum sinna fýsna.
Var það þá íslenzka ástin
sem ónýtti líf þeirra beggja?

— Nekt kennir nöktum að spinna
og nálina blindum að þræða,
sulturinn soltnum að fiska
og sektin föllnum að rísa.
Nauðsyn fram-kraftana knýr
og kögglana herðir á örmum.
Ómenskan rót sína rekur,
til ranglátrar eftirlátssemi.

Hann hefði ef til vill aldrei
mátt andrúmslofts frelsisins njóta,
hefði hann engan átt að
á eyðimörkinni lífs síns.
Hvort hefði það verið rangt eða rétt,
að ræna hann einu
hjálpinni, er hann var á ferð
um hættunnar eyðisanda?

— Sjáir þú bróður þinn velkjast í vök
og viljir ei hætta
sjálfum þér út á svellið,
í svipan, honum til bjargar,
það er hið sama og þú,
til þess hefðir vökina höggið,
fleygt honum sjálfur í fljótsins hyl,
til að firra hann lífi.

Bjargi hann sér ekki sjálfur,
þér skyldan að bjarga 'onum býður.
Viljurðu' ei veita 'onum björg,
má vera' að hann bjargi sér sjálfur.
Vildir þú, ástvinur, eiga
það undir leyndardómi?
Guðrún gat ekki freistað
guðs og hamingju þannig.

Langt fram á nætur hún vakti og vann,
að verkinu loknu
lagði hún leið á stað
að leita hans, sem var týndur.
Örmagna' af þreytu af einum stað
á annan hún gekk, en
leitin var árangurslaus.
— „Leitið og munuð þér finna."

Að honum leitaði hún, sem hirðir
að horfnu lambi,
hjörðina' er umkringja úlfar,
yrðlingar þeirra og refir.
Svo fór 'ún heim til að hvílast,
en hugsandi, andvaka lá hún,
eða hún gekk um gólf
og grét, unz lýsti af degi.

Þannig leið nótt eftir nótt.
Hún naut ekki svefns né hvíldar.
Dag hvern með harmkvælum vann hún sitt verk
af vilja' en ei mætti.
Þrekið var farið að þverra
af þrautanna ofurmegni,
fjara út eins og flóð,
sem flæðir — ei nokkurn tíma aftur.

Honum var það ekki hulið,
að hún var að falla í valinn.
Hann hafði komið í síðasta sinn
til að sækja hennar daglaun.
Ómaks hann virti þau varla — því
þau voru orðin
létt sem fis í hans lófa —.
Þar lét hún sinn síðasta pening.

Áhyggjur vöknuðu' af værum svefni
og veittu 'onum aðsókn,
ruddu sér til rúms
og röskuðu í fyrsta skifti
ró hans rólegu sálar,
og risu' upp á móti hans vilja.
— Heilabrot kalla hyggindin fram
úr höfuðfylgsnum.

Þörf var á ráði, rænu,
rögg og atgerfi' að halda,
Guðrúnar hjálp var gengin,
og bönnuð öll nema 'ans eigin.
Þá fann hann fyrst,
að framferði sitt hafði verið
henni til þrauta og þyngsla,
og þörf var stefnunni' að breyta.

Það var að sönnu seint,
ein seint er betra en aldrei.
Honum lá við að hrópa:
„Hingað og ekki lengra!“
óska, að geta, sem postulinn Páll,
sig prófandi sjálfan
hug-glaður sagt: „Þessar hendur
hafa fyrir mér unnið“.

Hvað það var gott að geta
glatt hana, kannske læknað,
með því að breytast, bæta sitt ráð,
verða betri sér sjálfum.
Hvað það var létt henni að launa,
fyrst launin voru' í því fólgin,
sjálfan að ábata sig
við síðasta tækifærið.

Föðurskyldan, sem blýþungt bjarg
á bak honum lagðist.
Guðrún gat ef til vill orðið
að auki, honum til byrðar.
Það, að vera þræll,
var að þreyta sitt líf fyrir aðra,
afneita sínu eðli
og yfirgefa sig sjálfan.

Var ekki ráð að varast,
vera sjálfum sér næstur,
leika leikinn upp aftur,
við aðra íslenzka konu.
— Skyttan, sem deytt hefir fugl á flugi
er fullvís, að öðrum
óvörum unt sé að ná.
Aðferð lærist af reynslu.

---

Sumarið hennar—ið hinsta
að haustnóttum var að líða.
Sjúk meðal sjúkra hún lá
með soninn sinn unga,
nærðan á bliknuðu brjósti,
í búning öreigans færðann.
Nú var hans faðir fjær
og feig var hans elskandi móðir.

— Lamaði, hryggi, í hreiðrinu,
hvíti, mjallfáði svanur,
ófleygu afkæmi hjá,
eftirmynd sinnar móður.—
Hver er svo harðbrjósta, að hann
geti hjarta þitt sundur marið,
ungan þinn eftirskilið
á öræfum, móðurlausan?—

Átti 'ún að deyja frá drengnum sínum?
Hve ljúft var að lifa!
Vera hans vernd og skjól.
Hún vafði 'hann báðum örmum
eins og hún dauðahaldi sér héldi
um hann svo smáan.
Helja — var hún svo sterk,
að hlekkinn þann gæti slitið ?

Skipbrotsvonirnar skoluðust
skerin á, eins og bátsflök.
Von um að blessað barnið
föðurástina fyndi.
Sæluvon um sveininn,
sameinaði að nýju
föður og móður, svo öll yrðu eitt
—ein elskandi þrenning.

Vonirnar lögðust allar á eitt,
að eyða' hennar þrautum,
sannfæra hana um hluti,
sem huldir sjóninni voru,
telja henni trú um það,
að til væru þessir hlutir,
— eins og á biblíu bókstaf,
bygt væri líf eftir dauðann.

— Vonin, heilög og hrein,
sem háð er þeim lögum, að rætast,
leiðvísir er og ljósgjafi;
læknir, sem reisir frá dauðum.
Tálvon er alt eins og eitur
sem augnabliks tilfinning deyfir,
bætir svo kvöl 'on á kvöl
unz kvalirnar stillir með öllu. —

Óvart, sem þruma úr heiðskíru hvolfi
og haglél á sumri,
akri sem breytir í eyðimörk
á augabragði,
óvart, sem landskjálftakippur í klettlausu,
kyrðhelgu landi —
kom henni fregnin, að flúinn hann væri
til fjarlægra bygða. —

Sveinninn var nefndur Nonni,
nafnið hans afa síns bar hann.
Röðull var hann að rísa
með róslit á kinn og vörum.
Mamma 'ans var sól að síga til hafs,
en sortalegt húmið
nálgaðist, nálgaðist ótt,
nýlendusvæðið við vatnið.

Sveinninn við barm hennar brosti
af blessandi örmum vafinn.
Stunurnar hljóðnuðu. Hann,
sem var horfinn, í anda hún kyssti.
Dimmdi, um miðjan dag.
Hún dó með hans nafn á vörum.
Það var sem andvörpin síðustu segðu
söguna alla.

---

X.

## Veðraskiftin.



Ein gleðifregn á tíu stöðum tefst
á tíu rasta vegi, sem hún fer
og skröksögn telst, því einum eitthvað gefst,
sem annar vildi' að gefist hefði sér.
En demant sker, jafn-skýr og fagur gler
og skarpri sorfinn þél, ei breytist neitt
og sannleikanum verður aldrei eytt.

En sorgarfregnin símlaust óraleið
itvs ápsund fer, því henni' er bönnuð töf

og brautin gerð um grjóturð slétt og breið
og gefnir vængir yfir fjöll og höf.
Á öllum stöðum viðbót veitt að gjöf,
því verða hennar áhrif þroskabráð,
og tíföld þegar takmarkinu' er náð.

Hún Guðrún var af manni sínum myrt,
svo mörg voru' orðin, sem þeim bárust heim.
Slík nístingsfregn í föðurhúsi birt!
Hve felmtur-hljótt varð alt, hve dimt í geim!
Þótt sorgin eigi eilífdjúpan heim,
við ógnir dauðans þögn hún klæðir sig
og fellur leidd í dá, á stjarfa stig.

Á bak við hvarminn heitast tárið felst
og hnígur, þegar fáir vita af.
Og næturmyrkri breiðsla' um bygð ei dvelst,
þá blessuð sólin runnin er í haf. —
Nú var hún dáin, sætt og rótt hún svaf,
en sonur hennar vakti, mannsins beið,
sem fótgangandi lagði til hans leið.

Í augum Jóns var bærinn barna kumbl,
þar börnin saklaus voru pínd og deydd,
en morðinginn var frjáls og sat þar sumbl
og sá þau glaður út í dauðan leidd.

Við hugsun þessa ró hans öll var eydd,
sem ís varð kalt hans þel og honum létt,
að hlaupa þennan hundrað-mílna sprett.

En þung var gangan þangað, sem hún lá
í þagnarinnar djúpi, köld og föl.
Einn blómstursveig hann lagði leiðið á
og laut að moldum niður, stundar-dvöl.
Að hverfa þaðan — það var sárust kvöl,
því þar var honum stutt hin lengsta töf,
við dóttur sinnar orpnu engil-gröf. —

Í barnahæli fann hann vinar-von,
og vonar sinnar laun og fylling skarðs,
sinn yfirgefna, unga dótturson,
sem yl, að loknum kulda norðangarðs.
Svo skiftast veður — veður taps og arðs.
Hann vafði barnið sæng og örmum tveim
og flutti það í faðmi sínum heim.

*Arnljótur B. Olson*

## XI.

# Framfari.



Fjær skapi var Jóni að standa í stað,
í stríði sér vægðar að biðja,
því þegar hann settist í óbygðum að
var áformið mörkina' að ryðja
og þola sem snælenzka þjóðin,
í þrautunum bera sig vel
og láta fyrr lífið en móðinn
og leika sitt tafl fram í hel.

Hann orkaði að tilreiða ættingjum stað
og öðrum, sem komu yfir sæinn.
Að þeir mættu' í hvívetna eiga sig að
hann óskaði' að kæmi á daginn,
og eins, að þeir ástarhug feldu
til ættlands, af gamalli trygð
og vonaði' að hópinn þeir héldu
þar hjá sér, í íslenzkri bygð.

Að dragast í hlé þegar hættan var stærst
og hafa ei sigurinn unnið, —
það taldi hann hneyksli og fullhugum fjærst

sem flóttaspor höfðu' ekki runnið
en alt fram í andlátið barist,
af elsku til þjóðar og lands.
Að falla' ef fengi ei varist
var fagurt,—að áliti hans.

Og það var hans lögmál að stælast við stríð
og stefna að takmarki sínu.
Ef frumherji þreytist á þrautanna tíð
og þokar af beinustu línu,
er markmiði ónáð af öllum,
sem ætluðu' að feta hans spor.
En uppi á „örðugum hjöllum"
er ósjaldan hamingja vor.

Það bezta' er hann flutti til framandi lands,
úr feðranna dýrgripasafni,
var trúin á landið, og hugsjónin hans
sá hamingju þess fyrir stafni.
Að vantreysta, er vegi að tapa,
að voga, er launin að fá,
að hika, er sama og hrapa
og „hjallanum" aldrei að ná.

Hann naut sinna krafta til nætur og vann,
að nýju sér heimili bygði,

og húsið var vandaðra' en hitt, sem að brann
og hollara andrúmsloft trygði.
— Margt ilt til síns ágætis hefur,
að afleiðing þess er oss holl,
hún sterkara' og stöðugra gefur
í stað þess, sem fellur um koll.

Hann hreinsaði af jörðinni viðinn, sem var,
í valköstum hlöðnum af loga.
og útsýnið fríkkandi umbreyttist þar,
sem yfirborð hjaðnandi voga.
Og fóðurstrá nautgæf og fögur
sá flötur að ávexti bar.
Og moldin var þar ekki mögur,
af moldum hún frjósömust var.

— Hve frjálst er að búa í frumskógageim,
þar frá sínum vonum að rýma.
En þessvegna fluttist hann þangað í heim,
að þar var við eitthvað að glíma.
— Af þrekraun hefst þjóðvarnargarður,
í því felast kostir hvers lands,
að fáist af erfiði arður,
en ekki af hvíldinni manns.'

Þar fanst ekki tré, sem var fúið og ljótt,

en fjöldi af kjörviðum nýjum,
sem uxu í spori þess ónýta, skjótt,
af áhrifum þroskandi, hlýjum.
— Því ellina úti skal loka
ef æskunni móti hún fer
og fánýtt skal fyrir því þoka,
sem fagurt og nytsamlegt er.

Og þrátt fyrir óhöpp og einstæðingsskap,
var alt af til mikils að vinna.
Og Jón gat, með réttsýni, reiknað sitt tap,
því reyndist það áætlun minna.
Af stokkunum hagnaði hleypti,
sem harðærin löngu gat stytt,
að útsæði og kvikfé hann keypti,
sem kostugra reyndist en hitt.

Þar sáust ei ummerki samt nokkurn dag,
er sönnuðu að Jón væri fjáður,
en alt af fór batnandi búskaparlag
og búið varð stöðugra en áður.
— Við skipbrot ei skaðinn mig hryggir
ef skipshöfnin bjargast á land
og vandaðri byrðing sér byggir,
sem býður ei skemdir við strand.
Og árlega rættust nú óskirnar hans,

því umhverfin bygðust af frændum,
og hóparnir komu af hafi til lands,
af hraustlegum, íslenzkum bændum.
— Hve gott er að landi að leggja,
úr langferð um roksævar húm
og fá innan frænda síns veggja
að fara í uppbúið rúm.

Og gott var að koma á góðvina-fund
og ganga við speglandi ána,
um framfara skeiðvöll, í skjóli við lund,
í skini af stjörnum og mána.
Hann vermdist af andlegu vori,
og vöðvarnir drukku' í sig kraft,
hann lifnaði, léttist í spori,
sem losnuðu 'ans fætur við haft.

Og hann var þess fullvís, að feðranna mál,
á flæðisker mundi ekki lenda,
en óðfagurt, hljóðmilt og hvelt eins og stál
þar hljóma til daganna enda.
Hann óskaði' um eilífð þar geymdist
öll auðlegð vors bókmentasjóðs,
að fornsagna gullið ei gleymdist,
né gimsteinar hrynjandi ljóðs.

Og Nonni var afa síns einasta stoð.

Hann óskaði af barnglöðu hjarta,
að formaður yrði 'ann á framfaragnoð,
á framtíðarvatninu bjarta.
— Þeir grunaðir eru um græzku,
þótt góðlegan hafi þeir svip,
sem stefnulaust eyða' sinni æsku,
og eru sem stýrislaus skip.

Og Jóni var ljóst að í barninu bjó,
síns bygðarlags leiðsögu stjarna.
Og þar fann hann kærleik og karlmensku ró,
þar kendi hann svip sinna barna.
Þó kárnaði kannske hans gaman,
hann kveið ekki ellinnar tíð.
Nú voru hans sigurlaun, saman
að safnast í heild, eftir stríð.

Og fólkið með íslenzkan framfarabrag
við framtíðar horfurnar sættist
og bygðin fór stækkandi dag eftir dag
og draumurinn smám saman rættist.
— Þó mörg hafi framkvæmdin farist,
ei fólgið er hugsjónum manns:
Að aldrei til einskis er barist,
í óbygðum Norðvesturlands.



# Bjarni gamli.

Bjarni var einn af elztu landnámsmönnum,
austan um haf 'ann kom, úr Skagafirði,
vanur, frá æsku, ferðum úti á fönnum,
fjallgöngum, sjávarróðri og þungri byrði,
hafði á reiðum höndum gamanyrði,
hvernig sem blés og gáfust föng á miði.
Bjarni var altaf einhverjum að liði.

Snauður kom hann að heiman, eins og fleiri,
hafði' ekki safnað fé um ævidaga.
Þjónum, sem reynast öðrum orku-meiri,
illa er launað,—það er gömul saga.
Hann hafði barist fyrir munn og maga.
Margbættar spjarir, slitnar vaðmálsflíkur,
vitnuðu' að Bjarni væri ekki ríkur.

Sundrað var öllum sveitungum og vinum,
sjálfstæðum mönnum gefnar akurlendur,
talið var víst að hollar yrði hinum
hrjóstrugar fiskvatna eyðistrendur.
Flestir af þeim, sem höfðu tómar hendur,
hættu sér ekki' á sléttlendi með plóginn.
Þeir urðu' að fiska, höggva skarð í skóginn.

Bjarni nam land, sem lá í skógi' og feni,
lífsbjörgin var á fiskimiði dregin,
húsið hans var að hálfu leyti greni,
hold voru djúpum flugnasárum slegin,
gangandi manni var ei fært um veginn,
vatnaði yfir harðvelli og mýrar.
— Kaupstaðarvörur voru allar dýrar.

Þar var hann undir þunga dagsins sveittur,
— þar voru kaupgjöld ónóg fátæklingum, —
svefnlaus um nætur þegar hann var þreyttur,
þoldi ekki við af sárum gigtarstingjum.
Skógurinn gnæfði hringinn hann í kring um,
hann átti þar að slíta sínum kröftum —
seinasta lífsins afli, — á axarsköftum.

Fólksmalinn lét sér aldrei ant um landann,
eftir að hafa tælt hann út á klaka.

Alla, sem komu allslausir að handan,
að sér varð Bjarni seint og snemma' að taka,
einn yfir þeirra þröngu kjörum vaka,
þurfandi veita öðrum, sem hann mátti,
miðla af því litla, sem hann sjálfur átti.

Þannig liðu árin. Færðist ekki úr fari,
framför um þumlung einn, á Bjarka landi.
Lífið í Bjarna blakti sem á skari,
brákuðum reyr og hörkveik lítt logandi.
Þrátt fyrir það var glaður oft hans andi,
oft mintist hann á sína fyrri daga,
—saknandi ættarlandsins heimahaga.

Ljóst var að búsins stólpi gat ei staðið,
stálið, sem hafði dugað lengst að bjarga,
grunn undir búin granna sinna hlaðið,
ganga látið sín efni jafnt til margra.
Seinasta eyri fjár hans varð að farga,
fyrir það, sem hans skjólstæðingar örmum
köstuðu til að hjálpa' og eyða 'ans hörmum.

Húsfreyja þoldi þessa raun ei lengur,
þurfamann aldrei vitað gat hún Bjarna,
hefndargjöf virtist hver hans bjargarfengur,
hamingju sjálf hún freista vildi gjarna.

Bónleit hún fór með sljófguð vopn til varna,
vann fyrir launum heimilinu fjarri,
menningu lands og nægtabrunni nærri.

Leið fram á vetur. Engin fregnum fræddist,
fyr en hann Bjarni sjúkdómsþyngsla kendi.
Fárveikur var hann fótum á og klæddist,
funheitur allur, sem hann logi brendi.
Liðsbón til allra granna sinna 'ann sendi,
sagði þeim hvernig dauðinn níddist á sér.
—Sóttkveikjan allra mannúð fældi frá sér.

Yfirgefinn af öllum lézt hann þarna,
öreigi, hjálparlaus, en góður drengur.
Heiðursmenn komu' að hlynna að líki Bjarna,
hjúkrunin síður dragast mátti lengur.
— Engum, sem þeim er örðuglega gengur,
ævilangt þóf, jafn-velkominn er svefninn.
— Þófaralaunin eru sjaldnast efnin.

Tíðindin bárust heiman, húsfreyjunni,
heimleiðis fór hún, engri viðstöð tafin.
Grátfegin var hún, að hann, sem hún unni,
upp yfir sveitarbraginn var nú hafinn.
Til þess að Bjarna gröfin yrði grafin,
goldið var mönnum fyrirfram og þakkað.

Þegið var það af náð, en til þess hlakkað.
Svo kom að því að að „húslað yrði hræið“,
hópaðist saman fjöldi veizlugesta
til þess að hryggjast, syngja líksöngslagið.
láta þar viðhöfn sjást, sem allra mesta.
Mátti samt ekki máltíðinni fresta.
Mjög var þá yfir borðum rætt og hlegið,
fjallað um smérið, holdalag og heyið.

Rýmka um sig til þæginda menn þurftu,
þegar þeir höfðu fylli sína etið.
Fólkið var óvært, fór að tínast burtu,
fann að það hafði alt of lengi setið.
Heimilið átti meir að vera metið,
margt var að starfa, dagur var að líða,
—svo var nú ekki eftir neinu að bíða.

Líkmenn, sem höfðu launin þegar fengið,
létu sér ant um gæzlu sinnar skyldu.
Þá var með líkið út til grafar gengið,
grátendur engir líki Bjarna fylgdu.
Ekkjan var hljóð; af *hjarta* nokkrir vildu
hryggjast með þeim sem grétu, en því miðu
kom ekki til þess,—samt var þetta siður.

—Gleymt er nú flestum landnámsmansins leiði,
legsteinn er enginn þar til kosta sagna,
troðið og nagað eins og land í eyði
yfir það ganga samokar með vagna.
Hagnaði af starfi hans er enn að fagna,
hinir og þessir eigna sér hans vinning.
Bygðinni sinni fjarri, er mannsinns minning.

---

## Skafrenningur.



Yfir hjarnsins hvíta klett
hleypir norðanveður,
skefur af einum skefldum blett
skafl á öðrum hleður.

Hátt um skýja hengibrýr
hljómar stormsins gjalla,
upp hann þyrlar snjó og snýr
snæri úr togum mjalla.

Samanföst og sundurlaus
sópast fönn um glærur —

upp á kaldan klakahaus
kembast vetrar hærur.

Eykst og minkar efni skafls,
eyðist það sem safnast.
Fyrr en lýkur ærslum afls
allir skaflar jafnast.

Ljóst er, gegn um leiksins þátt:
lítt sem breytist, fátt er,
lækkar það sem hóf sig hátt,
hverfur það sem lágt er.

---

## Ljósálfar.

Svífur ljósálfa-fjöld um hið kyrðsæla kvöld
og af kyndlunum bjart verður náttmyrkrið svart
eins og gneistaflug, þétt áfram líðandi létt
smigur loftið í gegn, þetta tindrandi regn,
þessi góðkunna glóð,
þetta glysfagra blys.

Jafnvel lamaðan hug getur hafið á flug
yfir helmyrkra bik þetta ljós-álfa-blik,

svo við lífið í sátt, upp um heiðloftið hátt
getur hafist hver önd, sem vill nema sér lönd
ljóssins hásæti hjá,
þar sem húmar ei rúm.

Þegar endað er skeið og mitt líf sína leið
hefir liðið of fljótt, eins og draumur um nótt,—
vil eg fljúga um geim, yfir gjörvallan heim,
vera geislandi sál eins og ljósálfsins bál.
Uppfylt þá er mín þrá
og til þarfa mitt starf.

Ó þú ljósálfa bál, að þér laðast mín sál,
þú ert ljósdrottning mín þegar sólskinið dvín.
Þegar önduð og stirð er á hausti þín hirð
og þín hátign er byrgð, ertu' í einrúmi syrgð.
Verði hróður og hljóð
Þér til hróss,— Drottning ljóss!

*Arnljótur B. Olson*



